# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga.*
*gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

16. árg. WINNIPEG, JÚNÍ 1901. Nr. 4.

## Vonarhlátr hins trúaða.*)

Eftir HJÁLMAR JÓNSSON (frá Bólu) dáinn 1875.

1.

Syngið lofkvæði Sebaot drottni,
Síons dœtr, í musteri hans!
Heimsins gjörvalla bygging þó brotni,
ber æ dýrðin guðs hátignar-glans.
Himnarnir úthrópa frægð drottins fríða,
festingin kunngjörir verkin hans stór.
Sérhverri bendingu herra síns hlýða
himinn og jörð, vindr, loft, eldr, sjór.

2.

Hví má eg þögull í þjáningum sorgar
þreyja með kvíða og hjálp enga sjá,
fastr við árniðinn Babýlonsborgar,
blöskrandi reiðir þar stefna mig á?
Samvizku brigzli og dunandi dómar
draga mig fanginn á töpunar leið
Er engin rödd, sem frá himninum hljómar,
hauðrið nær þegir um miðnætr skeið?

3.

Lífið, ó, lífið! Mér leiðist að þreyja
í langvinnum fjötrum, þar sólin ei skín.
Gröfin, ó, gröfin! Mig girnir að deyja;
gleymist öll skapraun í faðmlögum þín.

*) Í þessum sterku trúljóðum, sem aldrei hafa áðr verið prentuð, birtist höfundrinn í sinni fegrstu og fullkomnustu mynd.

Endrsköpt jurt mín skal upp af þér spretta
í alfrjálsu lofti þess ljósfagra geims.
Kærleikans rósir þá kransana flétta,
sem kulnuðu' á sáðlöndum tímans og heims.

**4.**

Ástvinir hverfa ; eg einmana þreyi.
Ellin og sjúkdómar herja mig á.
Boðarnir rísa að fánýtu fleyi ;
það fletr við óbrotnum hörmunga sjá.
Blindskerin leynast og freistinga flúðir,
forsmánar-ströndin þar ofanvert gín.
Stjórnin er töpuð, en sundraðar súðir.
Svikarinn spottast að vogreki mín.

**5.**

Hvar skal eg útnefna áfangastaðinn ?
Eilífðin gín yfir skipstjórnar sveif.
Sálar því knörinn af syndum er hlaðinn,
sökkva mun bráðum, þar holskeflan dreif.
Örvænting fárleg og freistingar hræða;
framar ei lífs von mín veik trúa sér.
Veltandi bylgjur og vostormar œða.
Vakna þú, drottinn, og bjargaðu mér !

**6.**

Hæ, hæ! Mig ber undan hörmungar ströndum,
þar hrönnin og stormarnir leggja sig meir.
Finnst mér sem andi frá ókunnum löndum
inn til míns hjarta rétt svalandi þeyr.
Grátskýin þynnast og glansar af degi,
svo get eg til landsvonar knerinum beitt.
Fra himninum rödd nokkur heyrist mér segi:
Halt þinni trú og ei óttastu neitt.

**7.**

Líð þú burt, heimr,—eg læt þig svo hverfa
langt fyrir aftan míns reisubáts skut.
Landið mót breiðist, sem önd mín skal erfa
og aftr þar finna sinn tapaða hlut.
Guðs kristni hrósandi hringingar eimr
hlust mína snertir, þótt orgi nú dröfn.
Araba vindblær og kryddjurta keimr
fra Keilon og Eden mér vísar í höfn.

**8.**

Ó, hó! Eg feginn vil öllu því gleyma,

sem útlegðin verkar á lífskjörin manns.
Duftið mitt fýkr, en hjartað er heima
í húsi míns föður og kveðr við dans.
Minn hefir frelsari fyrir því sorgað,
að félli til erfða sú híbýla-gjörð;
staðinn mér keypti og blóð sitt lét borgað.
Blessað sé nafn hans á himni og jörð!

9.

Sál mín er óróleg, krankdœmi kvalin,
kropin í duftið og huggast ei má.
Ferðin þó styttist; eg sé heim á salinn,
þar syngr *mín kæra* guðs stórmerkin há.
Gullstrengjuð harpa þar gellr samróma
glymjandi lofgjörð, þar hátignin skín.
Yfirklædd brúðr með eilífðar ljóma,
æ, hvað mig langar að koma til þín!

10.

Ljót eru verk mín, þá lít eg til baka;
liðin er æfin og dauðinn er nær.
Fæ eg ei tölur við summurnar saka,
samvizkan vitnar; hún lemr og slær.
Iðrunar hrœring nær tár mín út togar
og trúin sig setr á kristindóms stól,
fagnaðar-sáttmálans friðarins bogar
fœðast mót öndverðri réttlætis-sól.

11.

Kom þú nú, dauði, því Kristr er fenginn;
kvíði' eg þér ekki,—hann vopnin braut þín.
Skelfandi mynd þín skal ógna mér engin;
eilífr sigr á hjálmi hans skín.
Þú skalt mér nauðugr þéna til lífsins,
þvert móti eðli, og flytja mig heim
frá ólgandi stórsjóum útlegðar kífsins,
eiga svo duft mitt, þann foreyðslu seim.

12.

Eg stend á þér, Jesús, mín hjálpræðis-hella,
hæðandi' að óvina fylkingum þeim,
á mig sem herjuðu flatan að fella
og fjötraðan draga í kvalanna heim.
Ef þú mig fordœmir, hrekkvísa hjarta,
herrann er meiri,—sá upp reis af gröf;
skóf hann burt tölur míns skuldabréfs svarta
og skenkti mér kvittan að eilífri gjöf.

13.

Syng þú lofkvæði Sebaot drottni,
sál mín, um eilífð, því dýrð guðs er há.
þú skalt ei hætta, þótt húsið þitt brotni,
sem herfang var grafar,—og fari það þá!
þú, sem hér um brýzt í tálofnum tötrum
og tár mín út pressar og andvörpin heit,
lausnarinn bráðum þig leysir úr fjötrum,
á lífstöflu sína sem heiti þitt reit.

14.

Syng þú lofkvæði Sebaot drottni,
signaða guðs brúðr, kristnin á jörð!
Grundvölluð trú þín ei gugni né þrotni,
guðs sonar útvalin dýrkeypta hjörð.
Bið hann um lífvörð, því óvinir œða
að þér og herbúðum kringum þig slá.
Lyft þínum augum og hjarta til hæða,
hjálpin sem streymir og blessanin frá.

15.

Lokið er kvæðinu,—líðr að degi;
löng ertu gríma og háskaleg mér.
Hinsvegar fjalla á völundarvegi
vonardags-brúnin þá upplyftir sér.
Sá millum blundvoða bragarsmiðs veiði,
byrgðr hel-skuggum, á málstöflu reit,
einn sem um svartnættið andvaka þreyði
og engan til huggunar nálægan leit.

## Læknirinn deyjandi.

Í fjörutíu ár samfleytt hafði hann verið á ferð í sama byggðarlaginu meðal sjúklinganna, hvernig sem veðrið var. Ávallt samr og jafn; nokkuð stuttr í spuna oftast nær, jafnvel kaldranalegr; fremr grófgjörðr hið ytra; en vakandi og sofandi í skylduverkum embættis síns; maðr, sem æfinlega lagði sig í líma til þess að líkna þeim, er bágt áttu. Hjartað var gott. það leit svo út sem hann væri fremr lítill kirkjumaðr; en það stafaði ekki verulega af öðru en því, að embættisannir hans sem læknis leyfðu honum mjög sjaldan að koma til kirkju og sœkja þar helgar tíðir. Og svo komst það kirkju-

gönguleysi fyrir honum upp í vana. En að öðru leyti bendir allt til þess — eftir því, sem út kemr hjá skáldinu, er söguna hefir ritað*)—, að hann hafi geymt hinn kristna barnalærdóm sinn í djúpi sálarinnar. Og þessi hálfhuldi kristindómr bar stöðugt sýnilega ávexti í lífinu.

Hraustr og sterkr var hann alla æfi. Honum varð aldrei misdœgrt.

En loks kom að því, að hann lagði sig fyrir með al-ljósri meðvitund um það, að líkamskraftar hans væri algjörlega útslitnir og dauðinn þegar yfir hann kominn.

Svo kom vinr hans einn til hans, er hann var nýlagztr. Hann tók honum hjartanlega, jafnvel meir en vant var. Mild alvara var yfir honum þá. Hinn bjóst við, að hann myndi bráðum aftr rísa úr rekkju. En sjúklingrinn fullvissaði hann um, að þess væri engin von, því dauðinn væri einmitt nú í mjög bráðu aðsigi. Og svo tjáði hann komumanni, gömlum œskuvini sínum, hverja ráðstöfun hann gjörði fyrir aleigu sinni eftir sinn dag. En aleigan var reyndar sára-lítil. Sjálfr átti hann hvorki konu né börn og hafði aldrei átt, og engin nákomin skyldmenni. Hann gaf það litla, sem hann átti, til þeirra, er helzt myndi þurfa þess við.

Að því búnu bað hann vin sinn að lesa fyrir sig dálítið í guðs orði, og vísaði honum á gamla biblíu, sem hann hafði fengið frá móður sinni. Hinn tekr bókina og ætlar að fara að lesa í skilnaðarrœðu Jesú, þar sem þessi orð standa: ‚Í húsi föður míns eru mörg híbýli‘ o.s.frv.

„Það er inndælt orð — þetta“—grípr hinn sjúki öldungr fram í; —„en það er naumast fyrir aðra eins menn og mig. Það er of gott. Eg þori ekki almennilega að taka það til mín. —Lokaðu bókinni og flettu henni aftr upp þar sem hún helzt vill opnast, og þá mun fyrir þér verða nokkuð, sem eg hefi verið að lesa á hverju kvöldi allan þennan síðasta mánuð.“

Hinn gjörði eins og honum var sagt, og þá varð fyrir honum dœmisaga frelsarans um faríseann og hinn iðranda

---

*) Ian Maclaren (dr. Watson). Þetta er úr sögu hans „A Doctor of the Old School“, sem er ein af skáldsögum hans í hinu stó. fræga skozka sögusafni „Beside the Bonnie Briar Bush.“

syndara. Hann las þangað til kom að orðunum: ,En tollheimtumaðrinn stóð langt frá og vildi ekki hefja augu sín til himins, heldr barði sér á brjóst og sagði: Guð, vertu mér syndugum líknsamr.'

,,Þetta gæti hafa verið ritað fyrir mig''— sagði sjúklingrinn—,,eða hvern annan gamlan syndara, sem lokið hefir vegferð sinni hér og hefir ekkert af sjálfum sér fyrir sig að bera.''

,,Það var ekki neinn hœgðarleikr fyrir mig að sœkja kirkju; en með því að leggja hart á mig hefði eg þó getað það. Og eg hefi viðhaft orðbragð, sem ekki hefði átt að vera. Og eg hefði getað verið þýðari í viðmóti en eg hefi verið, og ekki svo stuttr í spuna eins og reynd hefir á orðið. Eg sé það nú.''

,,Það er of seint nú til að bœta úr þessu fyrir mig. En þú gjörir kannske svo vel að segja kunningjunum, að mér hafi þótt fyrir því, og eg vona, að guð almáttugr sýni mér miskunn.''

Og svo bað hann vin sinn að bera fram nokkur bœnarorð fyrir sér.

Hann gjörði það, — bað af heitu hjarta, en með mjög einföldum orðum.

Hinn sjúki maðr þakkaði fyrir og bauð nú góðar nætr, því hann fann, að nú var að renna á hann svefnhöfgi, sagðist ekki búast við að hann myndi þekkja hann aftr hérna megin.

Svo mælti hann af munni fram dálítið kvöldvers, það sama sem hann hafði endað daginn með allt af áðr á æfi sinni, og sofnaði.

Vinr hans sat hjá honum og heyrði hann nú fara að tala upp úr svefni.

Hann var í svefninum á ferð í ófœrð og snjóbyl um hávetr til sjúkrar konu einnar þar í sveitinni.

Allt af heyrðist upp úr svefninum, hvernig honum leið og hvað hann var að hugsa.

Líknarhugsanin var hjá honum alráðandi; en hann var þreyttr, sárþreyttr.

Svo breyttist ástand hins sofanda sjúka manns. Hann var horfinn aftr til œskustöðva sinna. Aftr orðinn barn.



það heyrðist upp úr svefninum upphafið á 23. Davíðs sálmi:

,Drottinn er minn hirðir; mig mun ekkert bresta'—

Og svo hélt hann áfram með þann inndæla sálm þangað til hann var kominn út í seinasta versið. Þá hikaði hann sér.

,,,Sannarlega fylgja mér þín góðgirni og miskunn alla daga míns lífs'—og hvað kemr svo?''

,,Hún móðir mín sagði, að eg yrði að vera búinn með sálminn, þegar hún kœmi.''

,,,,Eg kem''—sagði hún—,,drengrinn minn, áðr en þú fer í rúmið; en þú fær engan koss frá mér nema þú verðir búinn með sálminn''.''

,,,Og æfinlega——guðs húsi'—hvernig hljóðar það? Eg man nú ekki meira.''

,,Ó—ó!—það er svo dimmt orðið, að eg sé ekki á bókina, og hún móðir mín kemr þá og þá.''

Vinrinn, sem sat við rúmið, hvíslaði í eyra hins sofanda sjúklings:

,Og æfinlega mun eg búa í drottins húsi.'

,,Já, svona er það. ,Æfinlega mun eg búa í drottins húsi.'—Nú er eg búinn, og nú fæ eg koss hjá henni mömmu minni. Og eg vildi, að hún kœmi nú fljótt, því eg er lúinn, og mig langar til að mega fara að sofa.''

,,Og nú heyri eg líka fótatakið hennar—, já, og nú kemr hún með kertaljósið í hendinni. Eg sé það í gegnum dyrnar.''

,,Mamma! Eg vissi, að þú myndir ekki gleyma drengnum þínum, því þú lofaðir mér að koma, og eg er búinn með sálminn.''

,,,Og æfinlega mun eg búa í drottins húsi'.''

,,Kysstu mig nú, mamma!—því eg hefi beðið eftir þér, og rétt bráðum sofna eg.''

---

## Biblíufrœðin nýja.

Eftir séra Björn B. Jónsson.

---

### III. KRISTR OG ,,KRITÍKIN''.

Í þessum þætti greinar minnar ætla eg fyrst að sýna nokkur dœmi þess, að frelsari vor Jesús Kristr lítr allt öðrum

augum á gamla testamentið en talsmenn ,,biblíurannsóknanna" gjöra. Eftir það skal eg sýna, hvaða stefnu þeir neyðast til að taka, sem meta tilgátur sínar meira en vitnisburð Krists. Loks skal eg svo skýra frá, hvert ,,hærri kritíkin" er komin, að því er snertir kenninguna um guðdóm Krists.

,,Hærri kritíkin" kennir, að Móses hafi ekki samið Mósesbœkrnar ; Kristr segir hann hafi samið þær.

Hér skulu tilfœrð fá af mörgum dœmum þess, að Kristr telji Móses höfund Mósesbókanna:

Jesús sagði við Gyðinga: ,,Gaf Móses yðr ekki lögmálið? Og enginn yðar heldr þó lögmálið" (Jóh. 7, 19). Í dœmisögunni lætr Jesús Abraham segja við ríka manninn: ,,þeir hafa Móses og spámennina; hlýði þeir þeim" (Lúk. 16, 29). ,,Móses" táknar hér auðvitað lögmálsbœkrnar, eins og ,,spámennirnir" merkja spádómsbœkrnar. Lögmálið er hér líka talið á undan spádómunum. Jesús ávítar Gyðinga með þessum orðum: ,,Ef þér tryðuð Móses, þá tryðuð þér mér, því *hann hefir skrifað um mig;* en ef þér trúið ekki *hans bókum*, hver von er þá til þess, að þér trúið mínum orðum?" (Jóh. 5, 45—47). Jesús bauð líkþráu mönnunum að fara og sýna sig prestinum og offra þeirri gáfu, sem Móses bauð (Matt. 8, 5). Hið tilfœrða Móses-boðorð er í 3. Mós. 14: 3, 4, 10.— Jesús segir við mannfjöldann, að skriftlærðir og farísear sitji á ,,Móses stóli", og með þessu orðatiltœki telr hann Móses, en ekki Esra, upphafsmann kennara- og löggjafara-embættisins. Sadúseunum, sem veiða vildu Jesúm í orðum með spurningunni um það, hverrar eiginmaðr sá yrði í upprisunni, sem átt hafði sjö konurnar, vísaði hann til annarrar Mósesbókar og segir: ,,Hafið þér ekki lesið í *Mósesbók?*" (Mark. 14, 20).

Öllum ,,rannsóknar"-mönnunum ber saman um, að Móses hafi ómögulega getað skrifað staf af fimmtu bók Móses (Devteronomíum). En Kristr staðhœfir alveg hið gagnstœða (Jóh. 5, 45—47), þar sem hann talar um spádóm Mósesar um Messías í fimmtu bókinni og segir: ,,Hann (Móses) hefir skrifað um mig." Þegar Jesús segir (Matt. 22, 40): ,,Í þessum tveimr boðorðum er innifalið allt lögmálið og spámennirnir", hafði hann tilfœrt boðorðið um elskuna til guðs

og manna í 5. bók Móses. Allar ritningargreinarnar, sem Jesús vitnar til sem guðs orðs, þá hann stríðir við djöfulinn í eyðimörkinni, eru úr 5. bók Móses. þegar faríseárnir spurðu hann viðvíkjandi hjónaskilnaði, spyr hann þá aftr á móti, hvað *Móses hafi boðið* og vísar til orða hans í 5. Mós. 24, 1. — Jesús telr Móses hiklaust höfund 5. bókarinnar.

Um samtal Jesú við lærisveinana í Emmaus er sagt: „Byrjaði hann þá á Móses og öllum spámönnunum og útlagði fyrir þeim allt það í ritningunum, sem hljóðaði upp á hann" (Lúk. 24, 27). Og eftir borðhaldið sagði hann við þessa tvo lærisveina: „þetta er það, sem eg sagði yðr meðan eg var enn með yðr, að á mér ætti að rætast allt það, sem ritað er um mig í *lögmáli Móses*, spámönnunum og sálmunum" (Lúk. 24, 44).

það er alkunnugt, hvaða afstöðu Kristr valdi sér gagnvart lögmálinu og yfir höfuð öllu gamla testamentinu, undir eins við upphaf kenningar sinnar og við hið hátíðlega tækifœri, þegar hann flutti fjallrœðuna sína. Öllum er kunnugt, að hann bæði þá og endrarnær viðrkenndi ritning Gyðinga sem „ekta" opinberun frá guði, og þá ritning segist hann vera kominn til að fullkomna, og til heims enda segir hann að hún skuli standa.

Óþarfi er að tilfœra hér fleiri ritningarstaði í þessu sambandi. það er öllum augljóst, að Kristi og „kritíkinni" ber alls ekki saman. Meira að segja, þeir viðrkenna hreinskilnislega sjálfir, „rannsóknar"-mennirnir flestir, að Kristr sé á öðru máli en þeir. Enginn reynir að bera á móti því, að Kristr hafi haldið fram hinni gömlu kenning um ritninguna og eðli opinberunar-orðsins yfir höfuð. Og þeim öllum, er trúa á Krist sem guð sinn, ætti það eitt að vera nóg, að „hann sagði það sjálfr".

En „rannsóknar"-mennirnir, sem ekki vilja sætta sig við, að byggja á því, sem Jesús vitnaði um ritninguna, eiga um tvo kosti að velja. Annar er það, að halda fram þeirri kenning, að Kristr hafi vitað betr, hafi vitað, að Móses aldrei gaf lögmálið, hafi vitað yfir höfuð að tala, að biblían sé ófullkomin og stór-gölluð bók, en að hann hafi álitið rétt að notfæra sér

hjátrú landa sinna í þessu efni til þess hann gæti betr komið fram sínum eigin kenningum. En er mögulegt, að Kristr hafi leyft sér að viðhafa þessa aðferð og að hann hafi sent lærisveina sína út í heiminn til að halda fram í hans umboði þessari gyðinglegu hjátrú og boða öllum þjóðum þessar þjóðsögur? Er hœgt að ætla honum vísvitandi að blekkja mennina? Getr skynsemin sjálf gjört sig ánœgða með þá ályktan, eftir að hafa virt fyrir sér líferni og andlega eiginlegleika Jesú? Er þetta í samrœmi við hreinskilni þá, sem jafnan auðkennir hann?— Ef þessu væri slegið föstu um Jesúm, gætum vér naumast borið virðing fyrir honum lengr.

Hinn kostrinn er sá, að álykta, að Jesús sjálfr sé ekki óskeikull og að hann hafi haft rangan skilning á trúarbrögðum þjóðar sinnar. Þessi skoðun er dregin út úr hinni nýju *kenosis*-kenning. En sú kenning er í því fólgin, að með holdtekjunni hafi Kristr algjörlega afhjúpazt guðdómseðli sínu og hafi andi hans því verið háðr öllum mannlegum ófullkomleika, meðan stóð á holdsvist hans hér. En eru þá ekki allar kenningar Krists vafasamar? Ef honum er ekki trúanda til að hafa verið bær að dœma um trúbók landa sinna, mun hann þá geta kennt sannleikann svo ugglaust sé í öðrum efnum? Ef hann ekki hefir haft vit á jarðneskum efnum, mun hann þá bera skyn á himneska hluti? Sjálfr hefir hann kveðið svo að orði: ,,Ef þér trúið mér ekki, þegar eg segi yðr jarðneska hluti, hvernig munuð þér þá trúa, ef eg segi yðr himneska hluti?" (Jóh. 3, 12)*). Þegar Gyðingarnir undruðust skilning hans á ritningunni og sögðu: ,,Hvernig þekkir þessi ritningarnar, og hefir þó ekki lært?" svaraði Jesús: ,,Minn lærdómr er ekki minn, heldr þess, sem mig sendi." Með þessum orðum gefr hann í skyn ekki að eins það, að hann hafi óvenjulega mikla þekking á gamla testamentinu, heldr einnig, að skilningr sinn á ritningunni sé frá guði og það, sem hann segi um hana, sé því samþykkt af guði. Nú fer þess vegna að verða örðugt að halda því fram, að Kristr hafi ekki haft vit á að dœma um gamla testamentið.

---

*) Þessi orð Jesú eiga að ætlan vorri að skiljast eins og þau eru útlögð í ,,Guðspjallamálum", prédikaninni á trínitatis, bls. 421. En flestir guðfrœðingar munu skilja þau eins og séra Björn.—Ritst. ,,Sam."

Hvorugr kostrinn er góðr, og hvorn þeirra sem maðr kýs, kemst maðr loks að sömu niðrstöðu, haldi maðr hugsaninni áfram rökfræðislega. Maðr neyðist loks til þess að afneita guðdómi Krists.

Fæstir þeirra manna, sem út á þessa villugötu „kritíkarinnar" ganga, gjöra sér grein fyrir því í fyrstu, að þangað liggi leiðin, ef eigi er snúið við. Fyrir þessari hættu hefir séra Jón Helgason augsýnilega ekki gjört sér grein í fyrra, þegar hann ritaði í Maí-blað „Verði ljóss" sína hugsunarfræðislega skökku og trúfræðislega röngu grein „Jesús Kristr og gamla testamentið." Í þeirri grein lendir hann háskalega framarlega á gjárbarminn: afneitun á fullkomnu guðdómseðli Krists.

Eg hefi enga ritgjörð séð á íslenzku hættulegri fyrir rétta trú en áminnzta ritgjörð í „Verði ljós", því hún hefir í sér fólgin, þótt leynileg sé fyrir augum almennings, frækorn þeirra öfga og villu, sem „hærri kritíkin" hefir lent í hjá öðrum trúfræðingum, sem lengst eru komnir í áttina, að neita undirstöðuatriði kristinnar trúar.

Þessu framan skráða til staðfestingar skal eg nú sýna, hvar þeir standa, forsprakkar „hærri kritíkarinnar", og hvert þeir eru komnir, sem mest hafa gefið sig við rannsóknunum nýju. Og eins og áðr var tekið fram er það takmark hið eðlilega endimark þessarar stefnu.

Það er víst óhætt að fullyrða, að möndullinn, sem „hærri kritíkin" enska snýst um nú, sé prófessor T. K. Cheyne, háskólakennari í Oxford, og sá hópr guðfræðinga, sem hann hefir safnað um sig. Þessir guðfræðingar eru nú að gefa út trúfræðislegt fjölfræðisrit, sem nefnist *Encyclopaedia Biblica.* Þetta rit er skoðað sem nokkurskonar „biblía" „hærri kritíkarinnar". Nú eru komin út tvö bindi, og hafa þau vakið stórkostlega eftirtekt um allan hinn menntaða heim. Fyrra bindið gekk aðallega út á að tæta sundr gamla testamentið, líkt eins og séra Jón Helgason hefir leitazt við að gjöra. En í seinna bindinu eru guðspjöll nýja testamentisins rannsökuð, og fá þau engu betri útreið en Móses-bækrnar, Davíðssálmar, Samúelsbækr, Kroniku-bækrnar, Jobs bók, Esra og Nehemía

bœkr, Esajas spádómsbók o.s.frv. — Fróðlegt verðr að vita, hvort íslenzku trúar-,,vísinda"mennirnir þora nú að sigla í kjölfar skoðanabrœðra sinna, þegar til nýja testamentisins kemr.

Eg skal hér að eins koma með fáein sýnishorn af því, hvernig farið er með trú vora og kristindóm í þessari lærdómsbók ,,hærri kritíkarinnar".

Próf. Bruce, kennari við Free College í Glasgow, ritar eina greinina í áðr nefndu fjölfrœðisriti, og kemst hann þannig að orði um drottin vorn Jesúm Krist: ,,Hann var barn sinnar tíðar og sinnar þjóðar." Hann kallar Krist ,,hugsjónamann" og ,,skáld". Lækningar Krists segir hann beri vott um ,,ákaflyndi manneðlis hans" og segir þær sýni Jesúm sem ,,vin mannanna, í miklum, tignarlegum *mannlegum* skilningi (in a large, grand *human* way the friend of men)." Enn fremr segir sami höfundr: ,,Hafi hann á annað borð hugsað um sjálfan sig sem Messías, var það vegna þess, að það orð táknaði fyrir hann *hugsjón*, ímynd allra þeirra, sem lifa sjálfsafneitanda og þá um leið frelsanda lífi."

Annar maðr, prestrinn dr. Abbott, skrifar um guðspjöllin í *Encyclopaedia Biblica.* Eftir hann skulu tilfœrðar þessar setningar: ,,Frásögunni um upprisu Jesú í Matteusar guðspjalli hefir augsýnilega verið breytt, til þess hún ekki virtist eins ólíkleg." Aftr segir hann: ,,Þegar fram liðu stundir, hafa vantrúaðir menn og óvinveittir sýnt fram á mestu hneykslunarhellurnar (upprisusögunni viðvíkjandi) og seinni tíðar guðspjallamenn hafa svo bœtt við munnmælasögum til að breiða yfir þær og draga úr þeim."

Prof. Schmiedel segir í grein sinni um guðspjöllin: ,,Hinn strangasti trúmaðr getr ekki annað en efazt um áreiðanleik frásagnanna, þegar hann sér, hversu margar mótsagnir eru í þeim." Þessar mótsagnir segir hann að sýni ljóslega, ,,með hve miklu skeytingarleysi um sögulega nákvæmni guðspjallamennirnir hafi skrifað." Einkum sýnir prof. Schmiedel fram á mótsagnir í sögunni um upprisu Krists. Svo langt gengr hann, að hann loksins spyr: ,,Er þá nokkur sannleiki til í guðspjöllunum?" Jú, hann finnr níu atriði, sem rétt er skýrt

frá, allt úr rœðum Jesú. Og þessi níu atriði, sem eru sönn, segir hann að nœgi til þess að sanna, „að Jesús Kristr er algjörlega mannleg vera og ekkert guðlegt finnst hjá honum framar en það getr fundizt hjá hverjum öðrum manni; en þau sanna líka, að Jesús Kristr hefir verið til og guðspjöllin innihalda nokkuð af sannleika.“—Hvernig lízt mönnum svo á kritíkina?

Í ritdómi um þessa bók, *Encycl. Biblica*, líkir Lundúnablaðið *Academy* höfundunum, sem allir eru kirkjulegir embættismenn, við menn, er sitji í greinum trésins, en sagi þó limið af því og skilji það eftir bert og rúið. Líka kemst blaðið þannig að orði: „Kirkjan verðr nú að kjósa eitt af tvennu: *að* hafna algjörlega kenningum ‘hærri kritíkarinnar‘, ellegar *að* gjöra hinar stórkostlegustu breytingar á grundvallar-atriðum trúarjátninganna, sem hún nú viðrkennir. Ef—sem að líkindum verðr—hún kýs fyrra kostinn, má hún búast við, að að henni verði vegið ósleitilega, og sökum lærdóms óvinanna og þess, hve vel þeir hafa búið um sig, getr árásin ekki annað en orðið hættuleg. Þegar á allt er litið, þá skjátlast oss mjög, ef útgáfa þessarar nýju bókar ekki reynist hið háskalegasta högg, sem prótestantiskr kristindómr nokkru sinni hefir fengið.“

Eg vona, að *Encyclopaedia Biblica* verði af öllum upplýstum mönnum viðrkennd sem sanngjarnt sýnishorn af „hærri kritíkinni“ ensku. En svo skal eg koma með annað sýnishorn, sem tekið er úr bókmenntum „kritíkarinnar“ á Þýzkalandi.

Þýzki vísindamaðrinn dr. Adolf Harnack hefir gefið út bók, sem heitir: „Hvað er kristindómr?“ Bók þessi er nýkomin út í enskri þýðing og hefir vakið afar mikla eftirtekt. Þar talar einn af „stœrri spámönnunum“ úr hópi þýzku „rannsóknarmannanna“. Hann leggr mikla áherzlu á að sanna, að maðr að nafni Jesús Kristr hafi verið til hér á jörðinni, og að hann hafi verið öllum mönnum fullkomnari að því, er snertir samfélagið við guð. Kenning hans um föðurinn og lífsreglur þær, er hann setti, vill dr. Harnack að haldist við öllum heimi til blessunar. Svo fagrlega talar hann um *manninn* Krist, að ekki gæti nokkur rétttrúaðr kennimaðr komizt þar feti framar.

En hvað kennir svo dr. Harnack um grundvallar-atriði kristindómsins, guðdóm Krists og upprisu hans frá dauðum? Hann viðrkennir það, að Kristr hafi kallað sig ,,guðs son''. En hvað lætr hann það orð þýða? Hann segir, að það tákni að eins *þekking á guði*.. ,,Enginn *þekkir* soninn nema faðirinn, ekki heldr *þekkir* nokkur föðurinn nema sonrinn.'' Dr. Harnack viðrkennir, að þekking Krists á föðurnum sé einstakleg og öllu œðri; en því neitar hann, að Krist megi dýrka eða tilbiðja. Hann segir, að sagan um fœðing Jesú eins og hún er sögð í guðspjöllunum sé ósönn. Hann segir, að kenning Krists og postulanna hafi öll verið orðin afbökuð undir eins þá, þegar guðspjall Jóhannesar var skrifað og komið hafi verið með kenninguna um að Jesús hafi verið til áðr en hann fœddist hér í heim. — Dr. Harnack talar fagrlega um ,,þjóðsöguna'' um upprisu Jesú. Hann segir, að Páll postuli hafi hagnýtt sér þessi munnmæli, sem orðið hafi til undir eins á tíð fyrstu lærisveinanna, til þess með þessari sögu að leggja áherzlu á lærdóminn um líf eftir dauðann. Og dr. Harnack álítr, að þessi saga um ,,opnu gröfina'' hafi gjört meira en ,,Plató og trúarbrögð Persa'' til að koma mönnum til að tileinka sér vonina um eilíft líf. En sem virkilegum, sögulegum viðburði neitar dr. Harnack upprisunni.

Dr. Harnack hefir þannig viljað höggva tré kristindómsins upp með rótum, að oss finnst öllum, sem skoðum guðdóm Krists og upprisuna grunnvallar-atriði trúarinnar. Og það er ,,hærri kritíkin'', sem þennan merka mann hefir leitt í þessar gönur. Hún neyddi hann til að strika út úr nýja testamentinu sínu allt það, sem hljóðar upp á guðdóm frelsara vors og upprisu hans.

Og svo segja vorir frœðimenn og kennarar: Ekkert er að óttast. Þó þessi nýju biblíu-vísindi sé viðrkennd, er engu breytt til nema kenningunni um bókstaflegan innblástr biblíunnar! En það er að treysta um of á fávizku manna að láta sér slíkt um munn fara. Ef til vill hefði mátt telja mönnum trú um þetta fyrir nokkrum árum. En nú, með sögu ,,hærri kritíkarinnar'' á síðustu árum fyrir augunum og bœkr van-

trúar-,,vísindanna" í höndunum, blekkist enginn maðr á þeirri staðhœfing lengr.

Af því, sem hér hefir verið sagt að framan, vona eg að almenningr átti sig á því, að um miklu meira er í raun og veru að rœða en það, sem í fyrstu kemr í ljós, þegar ,,kritíkin" kemr á sjónarsviðið. Eg veit með vissu, að hinn háttvirti prestaskólakennari í Reykjavík, sem það ólán hefir hent að ginnast af tálbrosi hinnar ,,hærri kritíkar", ekki vill, að það komi fyrir oss, að vér lendum þangað trúarlega, sem þeir nú eru staddir, sem komnir eru lengst á vegi kristindóms-fráhvarfsins, bornir þangað af straumi nýju biblíufrœðinnar. En eg fæ eigi annað séð en að sú stefna, sem háskaleg hefir reynzt öðrum, geti einnig reynzt oss háskaleg. Og fyrst það er augljóst, að Kristr og ,,kritíkin" geta ekki samrímzt, þá skil eg ekki í öðru en að kristinn almenningr heldr kjósi Krist en ,,kritíkina".

## Biblíuþýðingin nýja.

Vér minntumst í fyrra lítið eitt á nýju íslenzku biblíuþýðinguna sem verið er að vinna að í Reykjavík. Í hitt hið fyrra kom út fyrsta bók Mósesar m m., og var það sýnishorn af því verki, að því er gamla testamentið snertir. Því verki er stöðugt haldið áfram. Fjórum fyrstu Mósesbókunum mun nú lokið og spádómsbók Esajasar hálfnuð. Hr. Haraldr Níelsson er þar aðal-maðrinn.—En í annan stað er líka verið að vinna að endrskoðan á nýja testament's þýðingunni. Kennararnir við prestaskólann skifta því verki á milli sín undir yfirumsjón Hallgríms biskups Sveinssonar. Markúsar guðspjall er þegar fyrir nokkru komið út, prentað í dálitlum bœklingi, sem kostar 10 aura. Séra Þórhallr Bjarnarson, lektor, hefir aðallega unnið að þýðing þess rits, og hefir svo sem við mátti búast vandað hana vel. Frumtextinn er nákvæmlega þræddr,—sami frumtexti sem farið var eftir við endrskoðan ensku biblíuþýðingarinnar hér á árunum. Einstök orð eða orðatiltœki í hinni nýju þýðing Markúsar guðspjalls þykja þó líklega sumum hálf-óviðkunnanleg, eins og t.a.m. ,,Tíminn er fullnaðr" (1, 15), ,,frœðimennirnir" (= hinir skriftlærðu), ,,fékk ást á honum" (10. 21), ,,þeir sátu yfir borðum" (14, 18), o.s.frv. En í öllu verulegu er þýðingin ágæt.—Líklega er Matteusar guðspjall nú út komið á sama hátt, og er það helzt verk séra Jóns Helgasonar. Að Lúkasar guðspjalli, sem líklega verðr næst prentað, vinnr séra Eiríkr Briem. Og þegar séra Þórhallr hafði lokið við Markúsar guðspjall, fór hann að eiga við endrskoðan þýðingarinnar á Gjörðabók postulanna.

Það að svona fljótt var farið að vinna að endrbót nýja testamentis þýðingarinnar jafnframt gamla testamentinu er meðfram fyrir áskoran brezka biblíufélagsins, sem þá líka hefir veitt nokkurn fjárstyrk til verksins.

Þeir menn, auk hr. Haralds Níelssonar, sem eiga þátt í endrskoðaninni á gamla testamentinu, eru biskupinn, forstöðumaðr prestaskólans og Steingrímr Thorsteinsson, skáldið.

Séra Jón J. Clemens heimsótti St. Jóhannesar-söfnuð í Pipestone-byggð og Brandon-söfnuð um mánaðamótin Apr.—Maí, prédikaði, skírði börn og fermdi á báðum stöðum. Var 12 daga í þessari ferð. Lætr vel af ástandi beggja safnaðanna.

Bókasafni kirkjufélagsins hefir hr. Helgi Illugason í Winnipeg gefið þessar bœkr:—1. Stúrms hugvekjur, Þriðji partr, Viðey 1838.—2. Flokkabók (Sigrljóð, Fœðingarsálmar, Krossskóla-sálmar, Hugvekjusálmar). Khöfn 1834.—3. Ármann á alþingi, partr án titilblaðs, og sambundið: Garðyrkjuleiðarvísir eftir J. Þ. Kjærnesteð. Viðey 1824.—4. Sjöorðabók Jóns Vídalíns (án titilblaðs).—5. Bastholms Hugleiðingar fyrir altarisgöngufólk. Leirárgörðum 1800.—6. Lofkvæði Salómons í sálmum (án titilblaðs). — Kæra þökk fyrir gjöfina.

Í nafni kirkju-félagsins.

JÓN BJARNASON.

Hr. *Jón A. Blöndal,* 567 Elgin Ave., Winnipeg, er féhirðir „Sam.“



„SAMEININGIN“ kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj ), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Rúnólfr Marteinsson og Jónas A. Sigurðsson.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS, — WINNIPEG.